Őreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

45. og 46. tölublað | Þriðjudaginn 20. desember | 6. árgangur. | Verð kr. 60.



# Grænland: Efnahagsleg kúgun

Í dagblaðinu Vísi 6. des. síðast liðinn mátti lesa einkar fróðlega grein, sem bar yfirskriftina: "Danski ríkiskassinn ber uppi þjóðarbúskap Grænlands." Er grein þessi einn liður í áróðursherferð, sem dönsk stjórnvöld hafa lengi haldið uppi. Sá áróður gengur út á það að danir hafi alls engann gróða af þessari nýlendu sinni, heldur sé hún þeim einvörðungu byrði sem danska borgarastéttin telji sér þó skylt að bera.

Í grein þessari er fullyrt að "þjóðarframleiðsla" grænlendinga nægi aðeins fyrir um helmingi af neyslu þeirra. Ennfremur að hefðbundnir atvinnuvegir grænlendinga, fiskveiðar, fiskiðnaður, sauðfjárrækt og veiðar standi aðeins undir 15% þjóðarteknanna. "Ríkiskassinn" þurfi hins vegar að standa straum af 75% allra launagreiðslna.

Greinin er, eins og margar aðrar af svipuðu tagi komin bein beint grá dönsku nýlenduherrunum og þýdd athugasemdalaust og virt í íslensku borgarapressunni. Engin tilraun er þar gerð til að draga niðurstöður af því, sem fyrir kemur í greininni, eða sýna fram á sannleiksgildi fullyrðingarinnar, sem yfir greininni trónir. Við skulum því líta örlítið nánar á nokkur þessara atriða:

### Hnignun hefðbundinna atvinnugreina.

Fyrst væri ef til vill ekki úr vegi að leita orsakanna fyrir því að hefðbundnar atvinnugreinar í Grænlandi skuli nú vera svo illa á vegi staddar. Í því efni beinast böndin strax að dönsku nýlenduherrunum og stefnu þeirra þeirra á Grænlandi. Allar aðgerðir dönku stjórnarinnar í málefnum Grænlands, hafa mið að að því, að skapa dönskum borgaurum aukinn og skjótfenginn gróða, en hafa í engu tekið mið af hagsmunum grænlenskrar alþýðu.

Taka má ótal dæmi um það, að stjórnvöld hafi hrakið grænlendinga burt frá landsvæðum þar sem þeir höfðu búið allan sinn aldur og stundað veiðar og aðra

frh. á bls. 6




Myndin er frá móti er grænlendingar héldu í K´utdlissat. Á borðanum stendur: Kúgaðir í öllum löndum, sameinist! Saman sterkari! Velkomin til Aussivik-77!



Verkafólki er ætlað að greiða halla þjóðarbúsins. Er ekki komin tími til að snúa dæminu við verkafólki í hag...?

# Kjararánsherferð ríkisstjórnarinnar

Enn hefur verið farin ein skipuleg kjararánsherferðin á hendur íslenskri alþýðu.

Skipulagningin felst í því að dýrtíðin skellur á, á fyrirfram ákveðnum tíma. Sá tími er fljótlega eftir að kauphækkun vinnandi fólks hefur verið reiknuð út. Þannig hefur kaupmáttur þeirra launa sem eru greidd mánaðarlega stórlega skerst, frá því að kauphækkunin var reiknuð út og þar til að hún kemur til framkvæmda.

Þessa kjaraskerðingu fær hinn vinnandi maður svo ekki bætta nema að óverulegu leyti, þremur mánuðum seinna. En þá fá ráðamennirnir að sjálfsögðu nýtt tækifæri á að leika sama leikinn og svo koll af kolli. Svipar þessari skipulagningu mjög til hinna svokölluðu rauðu strika.

Síðan segja talsmenn borgarastéttarinnar okkur að orsök dýrtíðarinnar sé of háar kauphækkanir vinnustéttanna.

Hvernig geta þessar fullyrðingar staðist þegar kjararánin skella á áður en kauphækkanirnar hafa svo mikið sem komið til framkvæmda.

### Jólaálagningar ríkisvaldsins.

1. Ofan á allar tekjur lágar jafnt sem háar leggst 1% skattur auk þess 1% skatts sem fyrir var og lagður var á árið 1976. Þessi skattur er svonefnt sjúkratryggingargjald.

2. Ríkisvaldið dregur að sér 2000 milljónir með hækkun á tekjuskatti einstaklinga.

Það er að skattvísitalan á persónuafslætti hækkar aðeins um 31% þó tekjuhækkun einstaklinga sé áætluð 42% á þessu ári.

3. Skera á niður greiðslur fyrir lyfjakostnaði og sérfræðiþjónustu við sjúklinga. Þannig ætlar ríkisvaldið að spara sér um 500 milljónir króna.

4. Skera á niður um 25% framlög til hafnarframkvæmda nema náttúrulega til hafnarframkvæmdanna við járnblendi verksmiðjuna á Grundartanga.

Sú höfn verður að komast í gagnið, því þaðan ætla ýmsir auðherrar sér að fá góðan skilding úr vasa skattgreiðenda, þó svo fyrirsjáanlegt sé að sú verksmiðja kemur ekki til með að skila hagnaði, heldur stórtapi.

5. 10% skyldusparnað á að leggja á þá sem eru duglegir að vinna eftir- og næturvinnu.

Þeir eru taldir til svonefnds hátekjufólks hafi þeir yfir 2,4 milljónir í tekjur á ári. Hins vegar er sjálfsagt að leggja skyldusparnað á hálaunaðan bittlingalýðinn þó það breyti í rauninni afskaplega litlu.

6. Framlög til grunnskóla verða skert um nálega 300 milljónir. Hér er sérstaklega átt við byggingarkostnað.

7. Undanfarin tvö og hálft ár hefur verið lagt á vörur sérstakt vörugjald og er það mjög mismunandi mikið á hinum ýmsu vörum. Nú á þetta gjald að vera fram að áramótum 1978-79 18% og þar nælir ríkiskassinn sér í 7000 milljónir króna.

8. Bensínlítirinn skal hækka um 17 krónur í ársbyrjun ´78. Hann mun svo að öllum líkindum hækka meir á árinu.

Þungaskattur bifreiða hækkar til jafns við bensínið.

Það er athyglisvert en þarf þó ekki að koma neinum á óvart að ríkið ætlar sér á allan mögulegan hátt að styrkja "einkaframtak" atvinnurekenda og veita þeim aukin lánafríðindi. 1600 skattlaus eða skattlítil fyrirtæki í landinu munu áfram fara sínu fram, arðræna verkafólkið og svíkja síðan undan skatti. Síðan fá atvinnurekendur lán af því fé sem mergsogið er út úr verkalýðnum. Verkalýðsstéttin mun áfram bera hinar þungu byrðar auðvaldsþjóðfélagsins.

# Jólin og verkafólk

Flest verkafólk kannast eflaust við þann úlfaþyt, sem alltaf verður í byrjun desember, þegar ákveða skal hvernig fólki skuli "vinna af sér" dagana milli jóla og nýárs. Venjulegur vinnutími er til kl. 12 á hádegi á aðfangadag og hefst aftur kl. 12 á miðnætti eftir annan í jólum. Einnig skal unnið til 12 á hádegi á gamlársdag. Jólafríð getur því orðið ansi skammt hjá verkafólki, þegar jólin ber upp á helgi, eins og t.d. nú. Því er það að fólk reynir að fá fríið sitt lengt, með því að fá frí fyrir hádegi á aðfangadag og gamlársdag. En ekki er nú svo auðvelt að verkafólk geti einu sinni fengið kauplaust frí þessa daga, þ.e. kaup fyrir viðkomandi dagafjölda, verði dregið frá viku- eða mánaðarkaupi þess, Nei, málin standa nefnilega ekki kaup-kaups, ef verkamaðurinn fær ekki launin sín og atvinnurekandinn ekki framleiðsluna sína. Framleiðslan er verðmætari en launin og því hefur atvinnurekandinn misst af gróða ef hann fær ekki sína vöru. Atvinnurekendur skírskota líka til þess, að samkvæmt samningum milli samtaka atvinnurekenda og verkafólks, þá eigi atvinnurekandinn rétt á að fá ákveðinn fjölda dagvinnustunda út úr hverjum verkamanni á ári. Því bjóða atvinnurekendur verkafólki upp á að vilji það fá frí, þá skuli það vinna samsvarandi stundafjölda á öðrum tíma. Algengt er að fólk fái frí úr vinnu milli jóla og nýárs, gegn því að vinna jafn marga laugardaga á dagvinnukaupi eða í yfirvinnu á dagtaxta. Í mörgum fyrirtækjum er vinnu svo háttað að mikið er að gera fyrir jól, en aftur á móti lítið fyrst eftir þau. Þá er nauðsynlegt að láta vinna yfirtíð í desember og þykir atvinnurekendum gott að geta borgað hana á dagtaxta og komið vörunni í sölu fyrir jól. Verkafólk vinnur þá yfirvinnu, án yfirvinnukaups. En atvinnurekandinn fær aukin afköst, án aukalegrar greiðslu.

Svo er líka fólk sem fær alls ekkert jólafrí. Meðal þess er starfsfólk á sjúkrahúsum. Konur í Sókn hafa sérstakt "stórhátíðarálag", sem er tvöfallt vaktaálag eða 66% á dagvöktum. Þannig er ekki einu sinni greitt eftir venjulegum nætur og helgartaxta á jóladag.

Frá sjónarhóli kapítalistanna tákna jólin þrennt; fáar dagvinnustundir í desember (þó fast mánaðarkaup sé hið sama), möguleika á ódýri yfirvinnu á háannatímanum, og aukna sölu á vörum, sem táknar aukinn gróða.

## LEIÐARI

# Verðbólgan gróða lind auðherranna

Eftir að samningar verkalýðsfélaganna höfðu hlotið staðfestingu nú síðast var ljóst að atvinnurekendur og ríkið hugðu á nokkrar gagnráðstafanir. Það var þó ekki fyrr en eftir samninga starfsmanna ríkis og bæja að látið var til skarar skríða af fullum þunga. Lán og styrkir til atvinnufyrirtækja eru stóraukin um leið og þeir tekjustofnar sem ríki og bær fá úr vasa almennings eru látnir mæta þeim hækkunum. Nú nýlega var lagt fram fjárlagafrumvarp fyrir næsta ár þar sem gert er ráð fyrir stórkostlegum hækkunum á framlögum almennings til ríkisins. Þessar hækkanir eru langt fram yfir það sem fékkst í síðustu kjarasamningum auk þess sem hækkanir á allri vöru og þjónustu voru áður búnar að hreinsa upp megnið af þeim launahækkunum sem fengust. Flestum er þetta ljóst og margir hafa orðið til að mótmæla þessum hækkunum, en þó eru þar furðu fáir, sem einhvern skilning virðast hafa á vandamálinu. Sumir verkalýðsforingjar kenna bændum um hækkun landbúnaðarvara, kaupmönnum um hækkun smásöluverðs, ríkisstjórninni um verðbólguna osfrv., en engum þeirra detturí hug að það geti verið að það sé vegna þjóðfélagsskipulagsins sem allt snýst nú gegn hinum vinnandi manni. Það er minna rætt um orsakir verðbólgu og aukinna álaga á alþýðuna, Það er ósköp skiljanlegt því það er einmitt þarna sem sker á milli umbótasinnana og byltingarsinnanna. Umbótasinnar af öllum gerðum hafa ætíð ætlað að rétta við og endurbæta fallandi auðvaldsskipulag og eins og þeir vita þá verður það ekki gert nema á kostnað hins vinnnandi manns. Til að halda framleiðslunni gangandi á tímum eins og núna verður verkalýðshreyfingin að færa fórnir eingöngu vegna þess að það eru umbótasinnarnir sem ráða ferðinni. Þeir hafa beinna hagsmuna að gæta sjálfir í gegnum margskonar fyrirgreiðslur sem margir verkalýðsforingjar í stærstu félögunum njóta. Innan verkalýðshreyfingarinnar eru helstu verkalýðsforingjarnir á einn eða annan hátt svo nátengdir auðvaldsskipulaginu að þeir eru gjörsamlega ófærir um að stjórna baráttunni fyrir hagsmunum verkalýðsins í baráttunni gegn auðvaldinu. Þetta vita atvinnurekendur og fulltrúar þeirra; ríkisstjórnin og eru því óhræddir að auka álögurnar á launavinnufólk. Hinir"ábyrgu" verkalýðsforingar hafa undanfarið stillt sér sér upp við hlið atvinnurekenda og rekið áróður fyrir íslenskum iðnaði, enn einu sinni hafa þeir gleymt að það eru íslenskir verkamenn sem hafa framleitt þessar vörur og það eru þeir sem nú eiga að axla þær byrðar sem til falla á þessum erfiðu tímum meðan atvinnurekendur fleyta rjómann ofan af. Mótmæli forystunnar verða máttlaus meðan þeir ekki heyja óvægna baráttu gegn afætunum á íslenskri framleiðslu sem eru atvinnurekendurnir. Það er ekki nóg að mótmæla auknum álögum sem nema nú um 30-40%, það verður að hefja skipulega baráttu sem setur sér framsýn markmið.

Það verður að sundra samstöðu sumra verkalýðsforingja með atvinnurekendunum og auka lýðræðið innan verkalýðsfélaganna. Án þessa verður ekki mikils árangurs að vænta af batáttu gegn ráðstöfunum sem ríki og bær eru nú að boða með nýju fjárlögunum. Verkalýðshreyfingin hefur nú undanfarið orðið að gefa mikið eftir og því má hiklaust kenna stéttasamvinnu forystunnar. Þetta ættu verkamenn aðhafaí huga þegar þeir íhuga hvernig standi á þeim hækkunum sem nú dynja yfir. Það væri mikill skaði fyrir verkalýðshreyfinguna ef hinni svikulu forystu tækist að etja einum hóp alþýðunnar gegn öðrum á alfarið röngum forsendum. Hækkanir neysluvara og þjónustu eru ekki vegna þess að laun þeirra sem vinna við þessar greinar hafi hækkað. Ástæðuna er að leita í því að það er einkaeign á framleiðslutækjum og það er til að auka gróða eigendanna sem verðbólgan eykst svo hröðum skrefum. Og þess vegna er það líka óverjandi að foringjar stærstu verkalýðsfélaganna hafi samvinnu við þessa aðila.

# Frjáls álagning á bókum

Nú eru jólin að koma og allir kaupmenn verða voða glaðir. Það sem einkennir verslun fyrir jól á Íslandi er verslun með bækur. Þó virðist vera að hljómplötur séu að taka við af bókum. Það getur verið vegna þess að auðveldara og fljótlegra er að hlusta á hljómplötur heldur en að lesa bækur. Hraði framleiðslunnar einkennir líf okkar. Þannig verða fljótlesnar myndasögur vinsælli með hverju árinu sem líður. Það hefur t.d. komið fram í könnunum að hluti bandaríkjamanna eru hálflæsir, þ.e. geta ekki lesið heila bók án þess að týna efnisþræðinum.

Álagning á bækur og hljómplötur er frjáls. Við skildum því ætla að verðlag bóka væri mismunandi, en svo er ekki. Það kemur til af því að heildsali (útgefandi) ákveður smásöluverðið. Dæmi um þetta er að maður einn hér í bæ gaf út bók. Hann kostaði sjálfur útgáfuna og ætlaði að fá 1700 kr. fyrir hvert eintak, en skipti sér ekki af sölunni að öðru leyti. Þegar hann fór að dreifa bókinni kom í ljós að enginn vildi taka við henni nema að hann ákvæði smásöluverð eða eins og einn verslunarstjórinn hjá bókabúðinni orðaði það: "fólk fer að nöldra og kallar það okur ef það sér verðmismun." Verðið á bókinni varð því 2900 kr. þ.e. 30% álagning. og 20% söluskattur. (ath. að prósentur eru teknar af smásöluverði og það sem eftir er fær útgefandi). Það er vert að athuga þessa álagningu, sérstaklega söluskattinn. Ríkið á að fá þennan skatt en fær hann ekki vegna þess að verslunin stelur honum t.d. í þessu tiltekna dæmi. Þessi bók er gefin út af einstaklingi sem gefur ekki upp eintaka fjölda og bókin kemur því ekki neinstaðar fram á opinberum skýrslum. Þannig er þetta einnig hjá stórútgefendum og sérstaklega þeim sem eru með búðir sjálfir.

Afnám söluskatts eykur kaupmátt launa og kemur í veg fyrir gróða í versluninni. Hvernig væri að minna á að þetta í næstu samningum við ríkið? Finnst fólki ekkert athugavert að önnur hver verslun geti boðið svo og svo mikinn afslátt, lægra verð o.s.frv.? Já. Þeir hafa það gott í bransanum.

frh. af baksíðu

# Hátið ljóssins





Jólasveinninn er sölukló kaupmansins.

líklega hefur þessu verið annan veg farið í Palestínu. Eitt undrið er þó öðrum meira á þessum myndum þar sunnanað, en það er dúnmjúkur snjór yfir öllu. Gjarnan eru svo litlir englar á flugi allt í kring. Þeir eru í ofarlega á bakinu. Flugeðlisfræðilega séð eiga þeir erfitt með flugið, enda einu fuglarnir sem ekki legjjast láréttir á flugi

Öll höfum við heyrt að syndugа manneskjan fari til helvítis eftir dauðann, en hinir góðu breytast í engla, sem svífa um skýhnoðrum og una sér við hörpuslátt og sálmasöng í himnaríkissælu. Mark Twain lýsir þessu svo í bók sinni Bréf frá jörðu :

" Í himnaríki mannsins syngja allir. Maður, sem aldrei söng á jörðu, syngur þar; sá sem ekki gat sungið á jörðu, er fær um það þar. Þessi allsherjar söngur er ekkert stundarfyrirbæri, iðkaður við sérstök tækifæri, með hvíldum og þögn á milli, nei hann heldur áfram, allan guðslangann daginn, og hvern einasta dag, tólf tíma sleitulaust. Og allir sitja kyrrir þó að á jörðinni myndi staðurinn tæmast á tveim tímum. Söngurinn er eintómir sálmar. Nei, einungis einn sálmur. Orðin sífellt þau sömu, um tylft að tölu, ekkert rím, enginn skáldskapur: "Hóseanna, hoseanna, hóseanna, Drottinn, Guð vor, ra. ra. ra. siss-búmm..... a - a- a- a."

Á meðan leikur hver og ein einasta persóna á hörpu- allar þessar milljónir milljóna. - þó ekki tveir af hundraði gætu leikið á hljóðfæri á jörðinni, né langaði nokkurntíma til þess. Hugsið ykkur annan eins fellibyls hávaða - milljónir radda æpandi samtímis og milljónir harpna gnístandi tönnum jafnframt. Ég bara spyr ykkur: er það ekki hryllilegt, andstyggilegt, óbærilegt?"

Ýmislegt er það í jólaguðspjalinu sem ekki fellur saman við annars viðurkennda sagnfræði. Má þar nefna skráninguna í Betlehem, en eitthvert erindi varð að finna fyrir Jósep og Maríu til að ferðast frá Nasaret til Betlehem, þeirrarr borgar sem Biblían kennir að frelsarinn ætti að fæðast í, Einnig telja sagnfræðingar að Pílatus og Heródes hafa aldrei verið uppi á sama tíma.

Jólin eru aldagömul hátíð, sem mun haldast um aldir, þótt í breyttri mynd verði. Frá upphafi hafa þau verið hátíð hækkandi sólar og menn etið, drukkið og verið glaðir. Síðar fóru kristnir menn við sama tækifær að minnast einnig afmælis síns helsta goðs. Með tilkomu kapitalismans hefur þessi hátíð orðið að einum miklum stressmánuði. Fólk hamast við að vinna sem mesta yfirtíð, svo það geti svo ætt búð úr búð síðustu dagana fyrir jól, til að kaupa alls kyns óþarfa, öðrum til ánægju(?.) Síðan hamast menn við að innbyrða alla jólahátíðina á tveimur og hálfum degi

En verða jólin afnumin í sósíalismanum? Nei, því þótt sósíalísk bylting kollvarpi auðvaldsskipulaginu þá afnemur hún ekki aldagamlar hefðir heilla þjóða heldur breytast þær vitanlega með breyttum þjóðfélagsháttum. Það er engin ástæða til að afnema þessa gomlu hátíð í skammdeginu. Miklu heldur er að bæta hana og efla, gera hana að raunverulegri upplyftingu og frítíma að vetrinum.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

- Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud 15-18,30
- Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Hafnarstræti 23.
- Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.
- Hornafjörður: Skúli Waldorff. Silfurbraut 2.
- Ísafjörður: Kristinn Karlsson. Fjarðarstræti 7.
- Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum 38.
- Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi,
- Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.
- Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v.444 Börglumvej 2, 8240 Risskov.
- Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kännärsvägen 3A:218. 222 46 Lund.

## Af fjölmiðlum

### TÓBAKSAUGLÝSINGAR

Nú virðist eitthvað vera að linna áróðri gegn tóbaksreykingum í útvarpi. Þessi setning gefur það til kynna að ég sé fylgjandi tóbaksreykingum. Það er nú öðru nær! Það sem mig langar til að spyrja um er: Af hverju var ekki minnt á "öðlingana" sem flytja eitrið inn í landið- sem græða á heilsu annarra? Það er aðeins talað um þá sem reykja og þeir stimplaðir sem glæpamenn gagnvart þeim sem ekki reykja. En þó að tóbaksauglýsingar séu bannaðar með lögum er hægt að fara kringum bannið. Eða eru ekki tóbakspakkarnir í búðarhillunum auglýsing? Mig langar bara til að fá að vita þetta. Svari hver fyrir sig.

# Palestína

## Balfour yfirlýsingin

Annan nóvember fyrir sextíu árum gaf utanríkisráðherra breta, Balfour lávarður, út yfir lýsingu með loforði til síonista um land í Palestsínu. Síðan hefur straumur síonískra innflytjenda ekki stöðvast og palestínuarabar hinir réttmætu íbúar Palestínu, hafa verið kúgaðir, burt reknir og myrtir. Þetta hafa verið sextíu ár stanslausra blóðsúthellinga, tára og eyðileggingar.

Með hjálp breta og aðstoð annara vestrænna heimsvaldaríkja var síonistaríki stofnað í Palestínu í maí 1948. Þá var einnig af þessum sömu ríkjum opinberlega hvatt til og stuðlað að innflutningi gyðinga til Palestínu. Þar við bættist að síonistaríkið var öflugast að hernaðarmætti ríkja í Miðausturlöndum oghafði í hótunum við arabaríkin þar. Í

Palestínumenn sem guldu hinnar sextíu ára gömlu Balfour yfirlýsingar eru staðráðnir í að ná rétti sínum. Palestínumenn munu aldrei þola þetta óréttlæti framið af vestrænum heimsvaldaríkjum í samvinnu við síonísku útþenslustefnu. Með trú á réttann málstað og af öllu afli mun palestínska þjóðin halda áfram baráttu gegn öllum samsærum sem hafa það markmið að rýra þjóðlegan og sögulegann rétt þeirra til heimalands síns Palestínu.

Palestínska andsprynuhreyfingin hefur á s.l. tíu árum orðið staðreynd í Miðausturlöndum, staðryen
staðreynd sem síonistar neita enn að horfast í augu við. En PLO, eini lögmæti fulltrúi palestínsku þjóðarinnar, hafa verið



júní 1967 hertóku ísraelar afganginn af Palestínu, Vesturbakkann og Gasasvæðið, auk egypskra og sýrlenskra landssvæða.

Arabaríkin sáu þetta óréttlæti en aðhöfðust ekkert. Þau voru hernaðarlega ófær um að reka burt innrásarliðið. Ísrael aftur á móti hélt til streitu lágkúrulegir stefnu sinni og rak nýlendustefnu, flutti innflytjendur til hernumdu svæðanna, án tillits til vilja arabaríkjanna og heims álitsins.

Bandaríkin, helsti stuðningur ísraelskrar árásarstefnu, reyna einnig að halda aftur af arabaríkjunum vegna olíuhagsmuna sinna í Miðausturlöndum, engu að síður halda þau áfram að birgja síonistana upp af háþróuðum eyðingarvopnum.

En er hægt að trúa loforðum gefnum arabaríkjunum, er hægt að veðja á góðu hliðar Carters? Eða er staðreyndin sú að síonistar eru öflugri kringum Carter en friðarsinnar?

viðurkennd sem pólitískt afl af heiminum og hefur fulltrúa í öllum alþjóðastofnunum, þar með taldar stofnanir S.Þ.

Það veltur ekki á PLO sem fulltrúa Palestínuaraba hvort að, Genfarráðstefnan verður eða ekki heldur á samþykki ísraela. Þeir verða að sætta sig við þá staðreynd að Palestína tilheyri palestínumönnum og að það ætti að vera nægt landrými til að palestínumenn geti búið við frið og frelsi í landi sínu, eins og aðrar þjóðir heims. Einnig palestínumenn hafa rétt til sjálfsákvörðunnar og stofnunnar ríkis í landi sínu. Síonisku útþenslusinnarnir verða hræddari með hverjum sem líður vegna vaxandi einangrunar. þeirra. Almenningsálitið hefur snúist gegn útþenslu þeirra og búsetu á hernumdum svæðunum.

Síonistarnir kjósa að hunsa almenningsálitið og knýja ríki Miðausturlanda og sennilega allan heiminn til nýrra styrjald aráttaka.



1948



Börn í flóttamannabúðum.

Flóttafólk frá 1967



Fórnarlömb



Fedayeen (skæruliði)

## Útþenslustefna síonista í Suður-Líbanon

Útþensla síonista í Suður-Líbanon á sér rætur í fortíðinni áður en þeir hertóku Palestínu. Sendinefnd síonista á friðarráðstefnunni í Versölum 1919, krafðist þess að Líbanon, suður að Litanfljóti, yrði innifalið í hinu svokallaða "þjóðarheimili gyðinga".

Taka vatns úr Litanfljóti hefur löngum verið talin nauðsynleg fyrir búsetu í norðurhluta Galíleu.

Undanfarið hefur últra-síoniska Likubandalagið, sem álítur landamæri Ísraels eiga að vera söm og hinn og hinn þjóðsagnakenndi Salómon konungur hélt fram, notað þessa kröfu til að réttlæta útþenslustefnu sína og hersetu. Bandalagið er bakkað upp af amerískri yfirlýsingu sem krefst handa Ísrael "landamæra sem hægt sé að verja".

Á sínum tíma hófu fasistar og ísraelskir bandamenn þeirra sameiginlegar árásir á Suður-Líbanon einmitt þegar endalok borgarastyrjaldarinnar þar voru í augsýn. Ætlunin var augljóslega að grafa undan sameiningu Líbanons og hertaka landsvæði. Yfirskynið var að "vernda norðurlandamæri Ísraels", og skapa með hjálp líbanskra hægrisinna blekkinguna um möguleika sambúðar og samvinnu síonista og araba í Líbanon.

Nú nýlega, 14.-26. sept., gerðu ísraelskar hersveitir árásir á þorp og bæi í S-Líbanon og palestínskar flóttamannabúðir þar. Þetta gerist á sama tíma og friður er innan seilingar á þessu svæði og andstaða heimsins magnast gegn útþenslustefnu og hersetu síonista. Takmarkið var að fullnægja metnaðargirnd síonistanna og með tímasetningunni sýna þeir heiminum fyrirlitningu sína.

Þann 14. fóru ísraelskir skriðdrekar og hersveitir yfir landamæri hersetnu Palestínu og Líbanons, verndaðir af stórskotaliði. Dögum saman létu ísraelskar hersveitir stórskotahríð rigna yfir þorp í Suður-Libanon.

Síonisk yfirvöld og vestrænir fjölmiðlar minntust ekki einu orði á þessa innrás þar til fulltrúar Sameinuðu Þjóðanna tilkynntu heiminum um innrásina. Samkvæmt skýrslu SÞ var ekki aðeins um að ræða stórskotalíðsárás frá herteknu Palestínu heldur höfðu líka ísraelskar Phantom og Sky Hawk orustuþotur tekið þátt í innrásinni. Margar ísraelskar hersveitir fóru yfir til Líbanons þegar ísraelskir fallbyssubátar sigldu eftir fljótum Líbanons allt til borgarinnar Tyre.

Svar síonista við uppljóstrunum um árásir þeirra var að ráðast á gæslustöð SÞ nálægt Khiam og leggja hana í rúst.

Þrátt fyrir að sameinaðar sveitir palestínumanna og líbanskra framfarasinna væru fáliðaðri og verr vopnum búnar, stóðu þær augliti til auglitis við ísraelsku hervélina og veittu henni mótspyrnu.

Palestínskar sveitir stöðvuðu framsókn ísraelskra skriðdreka á leið til Khiam og tókst að brjóta aftur tilraunir þeirra til að komast lengra. Loftvarnasveitir komu í veg fyrir að óvinaflugvélunum tækist að ná marki sínu. Hersveitir palestínumanna og alþýðan í Suður-Líbanon hafa enn einu sinni afhjúpað goðsögnina um ósigranleik síonistanna.

Til að svara fyrir árás síonista á þorp og bæi í líbanon gerðu palestínskar sveitir stórskotaliðsárásir á herbækistöðvar innan hernumdu Palestínu.

Þann 26. eftir ósigur sameinuðu sveita fasistanna hófu þeir áróðursherferð til að breiða yfir hernaðarlegan ósigur sinn. Áróðurinn innihélt venjuleg slagorð síonistanna um samdrátt herja, öryggi og opin landamæri. En eins og tekið er fram í Kaírósamningnum munu sameinaðar sveitir araba ekki draga úr her sínum heldur láta hart mæta hörðu ef ísraelsmenn ráðast aftur til atlögu.

Eftir að hersveitir Ísraels höfðu yfirgefið líbanskt land, lýstu palestínuarabar því yfir að hernaðaraðgerðir þeirra væru einungis varnaraðgerðir.

Ef óvinurinn reiðir til höggs mun honum mætt af fullri hörku.

Eftir að hafa neitað fréttum um tilvist ísraelskra hersveita í Líbanon buðu síonistar blaðamönnum að fylgjast með brottflutningi hersveitanna sem aldrei áttu að hafa verið í Líbanon.

Yfirstjórn PLO kom saman í Damaskus 19. sept. Hún benti á að árás ísraelsmanna var gerð á sama tíma og friðarsamningar í Líbanon voru að bera árangur einkum eftir samkomulag líbanskra yfirvalda, palestínumanna og arabísku varnarsveitanna í Shtaura. Búist var við framkvæmd 3ja lið samkomulag sins um komu líbanska hersins til Suður-Líbanon,, einkum til átakasvæðanna.

Enn einu sinni hafa ísraelar og leppar þeirra í Líbanon reynt að koma í veg fyrir frið í Líbanon. Palestínumenn munu fyrir sitt leyti standa við gerða samninga við líbönsk stjórnvöld. Þeir munu einnig; verja stöðu sína í Líbanon og berja óvægilega á þeim sem reyna að ráðast á hana.



# Hví er Kommunistaflokkurinn byltingarsinnaður

frh. af baksíðu

Kommúnistar líta svo á, að sá höfuðþáttur í kerfi efnahagslegra lífsskilyrða þjóðfélagsins, sem ræður þróun þess frá einu skipulagsformi til annars, sé fólginn í aðferðum manna til að afla sér lífsviðurværis, framleiðsluháttum þeirra, að því er snertir efnaleg gæði. Barátta verkalýðsstéttarinnar og borgarastéttarinnar stendur einmitt um um framleiðsluvörur þjóðfélagsins. Annars vegar er borgarastéttin sem á hvoru tveggja framleiðslutæki og framleiðsluafurðir. Hins vegar er verkalýðsstéttin sem með vinnu sinni við framleiðslutækin skapar öll verðmæti þjóðfélagsins en ber einungis nóg úr býtum til að viðhalda sér sem vinnuafli og skapa nýtt vinnuafl.

Kommúnistaflokkur Íslands er marxískur-lenínískur flokkur og á því engra hagsmuna að gæta nema hagsmuna verkalýðsins. Hann mun því vinna að því eftir öllum tiltækum ráðum að leiða stéttabaráttuna til lykta með því að vinna stöðugt að megindarbreytingum til hagsbóta fyrir verkalýðinn og stefnan er að eðlisbreytingum til frelsis fyrir verkalýðinn og um leið allt mannkynið.

hefst upp á stig eigindarbreytingar. Sú eigindarbreyting þ.e.a.s. bylting hefur í för með sér eigindarbreytingu á öllum sviðum þjóðlífsins.

Einmitt vegna þess er móthverfan milli borgarastéttar og verkalýðsstéttar nefnd höfuðmóthverfa.

Í stéttabaráttunni dags daglega verða megindarbreytingar á ýmsum sviðum, óendanlega margvíslegar. Þessar megindarbreytingar valda svo margvíslegum eigindarbreytingum á ýmsum sviðum t.d. á hugsun einstaklinga, virkni félagasamtaka og baráttustyrkleika. Slíkar eigindarbreytingar eru ekki afgerandi til breytingar á þjóðfélaginu, heldur eru þær hver fyrir sig stigbreyting á höfuðmóthverfunni. Það er að segja að smávægilegri eigindarbreytingar eru hluti þeirra megindarbreytinga sem leiða til eðlisbreytingar á þjóðfélaginu.

# Af verkamannasambandsþinginu

*Ræða Sigurðar Jóns Ólafssonar:*

## Verkafólk taki virkan þátt í félagsmálum

Góðir félagar,

Þetta er í fyrsta skipti, sem ég sit þing Verkamannasambandsins, eins og ykkur mun sjálfsagt renna grun í. Ekki er ég að heldur vanur því að sitja samningafundi, enda gegni ég engum trúnaðarstöðum í mínu stéttarfélagi eða á vinnustað. Samt sem áður hefi ég fylgst nokkuð náið með kjarabaráttu verkalýðshreyfingarinnar undanfarin ár og myndað mér ákveðnar skoðanir á henni út frá eigin reynslu og þekkingu. Ég hef verið valinn sem einn af 19 fulltrúum Verkamannafélagsins Dagsbrúnar, en það skal þó tekið fram, að ég er engan veginn sammála þeim kröfum, sem þetta félag hefur sett fram undanfarin ár og þaðan af síður starfsaðferðum stjórnarinnar við mótun kjarakrafna og við samningagerðir, að ótöldum ýmsum þáttum félagsmála.

Það sem mig langar til að fjalla um í þessum ræðustúf er einkum tvennt; annars vegar kaupkröfur verkalýðshreyfingarinnar undangengin ár, hins vegar virkni, eða öllu heldur afskiptaleysi verkafólks af málefnum sinna stéttarfélaga.

Síðustu árin hefur verkalýðshreyfingin verið á stöðugu undanhaldi. Þetta sýnir sig best í því, að kaupmáttur



Nokkrir þingfulltrúar á 8. þingi Verkamannasambands Íslands.

launa hefur verið langt undir framfærslukostnaði sé miðað við eðlilegan dagvinnutíma. Fyrir u.þ.b. 6 árum náðist sá merki áfangi í sögu verkalýðshreyfingarinnar, að dagvinnutíminn styttist úr 44 klst. á viku í 40 st. En þar með er ekki öll sagan sögð. Kaupmátturinn hefur aldrei verið í samræmi við þennan dagvinnutíma og því hefur 40 st. vinnuvikan aldrei orðið að raunveruleika í þessu þjóðfélagi. Meðal yfirvinnutími verkamanna og iðnaðarmanna á þessu tímabili hefur verið 12-15 klst. á viku, ef aðeins vinnustaðir í Reykjavík eru lagðir til hliðsjónar. Meðaltalið myndi að sjálfsögðu hækka, ef allt landið væri tekið inní myndina.

Frá miðju ári '74 og fram á mitt þetta ár hefur kaupmáttur meðalkauptaxta verkamanna stöðugt farið minnkandi. Á 33. þingi Alþýðusambandsins, sem haldið var í nóvember í fyrra var sett fram sú stefna af hálfu þingsins, að nú væri tíma varnarbaráttunnar í kjaramálum verkalýðshreyfingarinnar lokið; í stað þess ætti að hefja öfluga sókn. Þessi sóknaráform verkalýðsforingjanna fólust í kröfunni um 100 þús. kr. lágmarkslaun. Þó nokkuð hafi áunnist með samningunum í júní '77 er fjarri því að verkafólk geti almennt lifað af dagvinnutekjunum einum saman. Á sama tíma og 100 þús. kr. krafan var fram borin þurfti, samkvæmt opinberum skýrslum, meðal fjölskylda að



Sigurður Jón Ólafsson
Verkamaður

hafa 150-60 þús. kr. á mánuði til að framfleyta sér. Þetta er höfuðástæðan fyrir hinum langa vinnudegi á Íslandi; lágtekjufólk er neytt til að afla drjúgs hluta tekna sinna með aukavinnu - einfaldlega til þess að endar nái saman.

Það er mín skoðun, að meginkrafa íslenskrar verkalýðsstéttar í hagsmunabaráttunni í dag verði að vera: Lífvænleg laun fyrir 40 st. vinnuviku og að slík laun verði vísitölutryggð að fullu. Það er nauðsynlegt að krafan um fullar vísitölubætur á laun verði borin fram samhliða kröfunni um lífvænleg laun; að öðrum kosti myndi óðaverðbólgan gera þá kröfu að engu. Þessi krafa, lífvænleg laun fyrir 40 st. vinnuviku, er ekki aðeins geysi mikilvæg hagsmunalega séð, hún er jafnframt pólitísks eðlis. Hún tryggir ekki aðeins það, að verkamannafjölskyldur geti lifað sómasamlegu lífi á dagvinnutekjunum einum saman, heldur skapar hún þau skilyrði fyrir fjölmargt verkafólk, að það geti tekið virkan þátt í hinum ýmsu félagsmálum. Til að rökstyðja þessa skoðun mína enn frekar vil ég minna á markmið Verkamannasambandsins, en í 3. gr. laga þess segir m.a.: "Markmið sambandsins er. . . að vinna að afnámi allrar yfirvinnu, helgidagavinnu og næturvinnu, sem ekki ber ýtrasta nauðsyn til að unnin sé" og ". . . að vinna að styttingu vinnudagsins."

Yfirvinnubannið í sumar gaf kröfunni um lífvænleg laun fyrir dagvinnu byr undir báða vængi, því þá sá margt vinnandi fólk fram á nauðsyn þess að geta lifað af 8 st. vinnudegi og hvaða þýðingu sú krafa hefði fyrir daglegt líf þess. Ég er því sannfærður um það, að verkalýðurinn er reiðubúinn til að fylkja sér um þessa kröfu og bera hana fram til sigurs í n.k. samningum.

Ég vík þá að öðrum þætti máls míns, þar sem ég mun fjalla lítillega um starfshætti verkalýðshreyfingarinnar og lýðræðisskortinn innan hennar og úrbætur þar að lútandi.

Það er viðurkennd staðreynd, að íslensk verkalýðshreyfing hefur stöðugt verið á undanhaldi undanfarna áratugi. Það hefur aldrei verið meiri reisn yfir verkalýðshreyfingunni og á fjórða áratugnum. Baráttan var þá harðari en nokkru sinni, enda kom þá til gífurlegt atvinnuleysi og óvægin kjararánsstefna ríkisstjórnarinnar og síðast en ekki síst var stéttarlegur þroski verkalýðsins almennt á hærra stigi en nú er. En hvað veldur þessari hnignun verkalýðshreyfingarinnar? Ég vil einkum nefna tvær ástæður í þessu sambandi í fyrsta lagi hefur svo mjög verið þrengt að lýðræðinu innan verkalýðsfélaganna, að virk þátttaka fjöldans í hagsmunabaráttunni hefur beðið alvarlegan hnekki. Í öðru lagi hefur félagslegu og pólitísku uppeldi lítið sem ekkert verið sinnt af hálfu verkalýðshreyfingarinnar, þó vissulega horfi nú til bóta í þeim efnum.

Við verðum að horfast í augu við þá staðreynd, að hinn almenni félagsmaður er lítið sem ekkert virkur í málefnum síns stéttarfélags. Þessu veldur, að minni hyggju, fyrst og fremst það, að verkalýðsforystan, og þar á ég ekki hvað síst við forystumenn Alþýðusambands Íslands, hefur sankað að sér svo til öllum völdum innan stéttarfélaganna og hagað skipulagi þeirra á þann veg, að allur fjöldinn á vart kost á því, að móta kröfurnar eftir sínu höfði eða hafa einhver áhrif á gang mála. Það er ekki verkalýðsfjöldinn, sem hefur áhrif á gerð kjarakrafna komandi samninga og fær vart nokkurt tækifæri til að fylgjast með gangi samningaviðræðna. Nei, kröfurnar eru búnar til á einkafundum forkólfa verkalýðshreyfingarinnar og þeir sjá einir um allar samningsgerðir. Síðan er samningunum kýlt í gegn á félagsfundum, án þess að fjöldinn fái tækifæri til að skoða þá rækilega og láta síðan álit sitt í ljós.

Aðalástæðan fyrir því, að verkalýðsforystan hunsar þannig álit hins almenna félagsmanns er sú, að margur verkalýðsforinginn er fyrir löngu slitinn úr tengslum við líf og starf verkamannsins, hvað vinnu, aðstöðu og kjör snertir. Auk þess að vera forystumenn í verkalýðsfélagi sitja þeir í alls kyns nefndum og ráðum, í bankaráði, á alþingi o.s.frv. Þeir eru komnir í aðstöðu, sem þeir vilja ekki fyrir nokkurn mun sleppa. Lög félaganna eru líka þannig, að mönnum eru settar þröngar skorður með kosningu í stjórnir félaga. Allt þetta gerir það að verkum, að hinum almenna félagsmanni finnst hann vera utangátta við starf og stefnu félagsins. Þetta má glöggt sjá af mjög dræmri fundarsókn félaganna. Ég nefni sem dæmi, að í félagi eins og Verkamannafélaginu Dagsbrún, sem í eru um 4000 meðlimir mæta yfirleitt ekki fleiri en 100-200 manns og á síðasta fundi, þegar fulltrúar á þetta þing voru kosnir, for tala fundargesta niður í 50, en samkvæmt lögum félagsins þarf a.m.k. 300 manns til að álytkun frá öðrum en stjórninni sé lögleg. Og það er ekki langt síðan fresta varð aðalfundi hjá Hlíf, vegna þess að tala fundargesta var undir lágmarki. Það væri sjálfsagt hægt að nefna mörg dæmi um ólýðræðisleg vinnubrögð verkalýðsforystunnar, en ég læt nægja að nefna hér eitt lítið, en nokkuð skýrt dæmi. Dæmið tek ég af vinnubrögð-



um forystu Verkamannafélagsins Dagsbrúnar, enda er ég eðlilega kunnugri starfsháttum stjórnar þess en annarra félaga.

Fyrir u.þ.b. ári fluttum við nokkrir tillögu þess efnis, að Dagsbrún stæði fyrir blaðaútgáfu í þeim tilgangi að skapa umræður um kjara- og félagsmál og koma aleiðis nauðsynlegum upplýsingum til félagsmanna um réttindamál sín. Fylgdi og með tillögunni uppástunga um menn í ritstjórn blaðsins. Var tillaga þessi samþykkt einróma. Nokkrum vikum síðar, þegar félagsfundur var haldinn næst, hafði ekkert gerst í málinu og því var tillagan ítrekuð. Svaraði formaðurinn því þá, að stjórnin hefði sjálf skipað menn í ritnefnd blaðsins og væri fyrsta tölublað þess væntanlegt innan skamms. Kvaðst hann líta svo á, að samkvæmt lögum félagsins, væri stjórninni á engan hátt skylt að fara eftir óskum fundarmanna um tilnefningu í ritnefndina. Á það skal enginn dómur lagður hér, hvort stjórn Dagsbrúnar hefur með vilja ráðið þá menn í þetta starf, sem hvorki hafa haft áhuga né tíma til að sinna þessu þýðingarmikla starfi - allavega hefur þetta blað ekki enn séð dagsins ljós.

En það er náttúrlega til lítils að gagnrýna starfshætti verkalýðshreyfingarinnar, án þess að koma með einhverjar raunhæfar tillögur til úrbóta. Ég vil nefna þessar helstar:

Í fyrsta lagi verður að ohæfa, að ASÍ-topparnir fari einir með samningsvaldið. Verkamannasamband Íslands ætti að vera miklu sjálfstæðari aðili í þeim efnum en raun ber vitni, en fyrst og fremst verður að tryggja samningsvaldið í höndum einstakra landshluta og einstakra verkalýðsfélaga. Án efa myndi slíkt gera þau sjálfstæðari en ella og verða til að styrkja þau sem baráttuvettvang í hagsmunabaráttu verkafólks.

Í öðru lagi verður að breyta lögum stéttarfélaganna um kosningar á þann veg, að kosningar í stjórnir félaganna séu einstaklingsbundnar og að allir félagsmenn séu í raun í framboði í stað listakosninga eins og nú er háttað. Ennfremur ætti að stuðla að því með lagaákvæði, að sömu menn mættu ekki vera í stjórnum félaganna nema ákveðinn árafjölda í einu, þannig að tryggt sé, að menn staðni ekki í þessum embættum.

Í þriðja lagi - og þetta atriði er mikilvægast - verður að tryggja hið fullkomnasta lýðræði innan verkalýðshreyfingarinnar, lýðræði sem grundvallast á virkri þátttöku fjöldans við mótun kjarakrafna og annarra mikilvægra mála, er snerta hagsmuni verkalýðsstéttarinnar. Í sambandi við þetta verður að hafa það hugfast, að grunneiningar verkalýðshreyfingarinnar eru vinnustaðirnir. Til að skýra nánar, á sem einfaldastan og ljósastan hátt, hvað ég á við með þessu, vil ég tilfæra hér eitt dæmi úr raunveruleikanum. Þetta dæmi tek ég beint frá mínum vinnustað, sem er álverið í Straumsvík.

Á þessum vinnustað vinna á að giska 3-400 ófaglærðir verkamenn, sem Verkamannafélagið Hlíf er samningsaðili fyrir. Þeim má skipta í fimm mismunandi deildir, allt eftir því í hverju störf þeirra eru fólgin. Í þrem þessara deilda eru fjórir vaktahópar, sem

frh. á bls.7

## Ályktun um NATO og herinn

8. þing Verkamannasambands Íslands samþykkir að mótmæla veru Íslands í Nato og dvöl Bandaríkjahers á Íslandi og fordæmir harðlega allar hugmyndir sem fram hafa komið um umsvif hernámsliðsins í atvinnu- og samgöngumálum Íslendinga.

Markmiðið er: Að Ísland segi sig úr Nato og standi utan hernaðarbandalaga. Að Ísland segi upp herstöðvasamningnum við Bandaríki Norður-Ameríku og engar herstöðvar verði á Íslandi.

*Ræða Benedikts Kristjánssonar:*

# Raunverulegur 8 tíma vinnudagur er næsta takmark verkafólks

Hvers vegna er deyfð í verkalýðshreyfingunni? Telur verkafólk sig vera búið að ná endanlegum árangri í baráttunni? Margt verkafólk hugsar, er það hlustar á forystumenn sína, að það verði vart náð lengra í verkalýðsbaráttunni.

Áður fyrr stóð baráttan fyrir sköpun verkalýðshreyfingarinnar, sem ætlaði sér að koma á 8 stunda vinnudegi, halda uppi fullri atvinnu, koma á almannatryggingum og á allan hátt að byggja upp og breyta þjóðfélaginu með hagsmuni verkalýðsstéttarinnar fyrir augum, svo að eitthvað sé nefnt. Á þessum tímum fórnuðu menn sér fyrir baráttuna vegna þess að þeir voru að berjast til að ná fram skýrum markmiðum hreyfingarinnar. Þeir gátu eftir hvert verkfall metið og fundið hvað baráttan hafði fært þá nær þeim markmiðum, sem hreyfingin hafði sett sér.

Það sem verkalýðshreyfingin gerir rangt í dag er, að hún setur ekki fram skýr markmið, heldur lætur hverjum degi nægja sína þjáningu.

T.d. er sett fram krafa um að menn fái 100 þúsund krónu lágmarkslaun á mánuði, en til hvers? Af hverju ekki 97 þúsund eða einhverja aðra tölu? Með því að setja upp svona markmið sér fólk ekki annað en þetta sé stöðug endurtekning aftur og aftur. Næst verði það 150 þúsund, síðan 200 þúsund og svo framvegis. Því finnst baráttan vera endalaus og tilgangslaus.

Það er skylda verkalýðshreyfingarinnar og forystu hennar að útskýra markmið baráttunnar í hagsmunabaráttunni, og er þar mikilvægast að koma á raunverulegum 8 stunda vinnudegi á lífvænlegum launum. Ef þetta er sett fram sem aðalkrafa, að undangengnu miklu undirbúnings- og fræðslustarfi í verkalýðshreyfingunni, þá er enginn vafi á því að það verður ekki um neina félagsdeyfð í verkalýðshreyfingunni að ræða.

Við getum tekið sem fordæmi útgáfustarf BSRB, er tryggði verulega þann góða árangur, er þeir náðu í nýafstöðnum samningum, er þeir áttu í. Þeir gefa út blað til allra félagsmanna, "Ásgarð", er kemur út fjórum sinnum á ári, auk minni fréttabréfa og blaða til trúnaðarmanna á vinnustöðum. Þeim peningum er varið var til þessa útgáfustarfs var vel varið, því það er nauðsynlegt að tryggja samstöðu félaganna og þeirra er forystu gegna.

Þegar fólk hefur fengið skilning á þessu ljósa markmiði, þ.e. kröfunni um raunverulegan 8 st. vinnudag, sem allir geta sameinast um, þá sér fjöldinn, að verkalýðshreyfinginn þarf á starfskröftum þess að halda. Þá verða verkalýðsfélögin að vera undirbúin að taka við því fólki sem vill þá koma til starfa innan hreyfingarinnar. Þess vegna er ákaflega brýnt að hefja öflugt útgáfustarf innan Verkamannasambandsins til að auka á samstöðu einstakra verkalýðsfélaga, kynna starfsemi þeirra og þau verkefni, er hreyfingin hyggst hrinda í framkvæmd.

Það er ekki aðeins í kaupgjaldsbaráttunni sem við þurfum að setja fram skýr markmið. Þetta á líka við í skattamálum, svo dæmi sé tekið. Þar verðum við að ná því í gegn, að engir skattar séu lagðir á alþýðu manna, en í stað þess afli ríkissjóður tekna með því að skattleggja auðfyrirtæki, er nú eru tekjuskattslaus. 500 stærstu fyrirtækin voru tekjuskattslaus á síðasta ári. Rökin fyrir því að þetta eigi að vera svona, en ekki einhvern veginn öðruvísi, eru þau, að við verkafólkið framleiðum ekki aðeins jafnvirði þess er við fáum í laun. Gróðinn og atvinnutækin eru líka afurð okkar vinnu. Þess vegna höfum við fullan siðferðislegan rétt til að krefjast þess, að tekjuskatturinn verði aðeins tekinn af atvinnufyrirtækjum þjóðarinnar með veltuskatti eða öðrum ráðum. Ef skattlagningin væri með þessum hætti gætu atvinnurekendur ekki beitt ríkisvaldinu til að velta byrðum efnahagslífsins yfir á verkafólk með sköttum. Þegar þetta næst í gegn verður um áþreifanlegan árangur að ræða.

Aftur á móti kemur staðgreiðslukerfi skatta ekki til með að minnka skattbyrðina, en það kerfi getur aldrei orðið markmið okkar í skattamálum. Þar eigum við að hafa skýra stefnu: Enga skatta á þurftarlaun.

Í húsnæðismálum vil ég taka undir ræðuflutning Bjarnfríðar Leósdóttur hér í gær. Allar íbúðabyggingar eiga að vera á félagslegum grundvelli og afnema skal lán úr lífeyrissjóðum verkalýðsfélaganna til húsbyggingar á frjálsum markaði. Þetta verður ekki gert í einu vetfangi, en þessi stefna verður að vera hinn rauði þráður verkalýðshreyfingarinnar í öllum aðgerðum í húsnæðismálum sínum og lokamarkmið.



Benedikt Kristjánsson verkamaður.

Ég er búinn að taka upp nokkur nauðsynjamál verkalýðshreyfingarinnar þar sem marka verður miklu skýrari stefnu en verið hefur. Skýr stefna er lykillinn og lausnin á þeim félagsdoða, er hrjáir okkur í dag. Vingulsháttur verkalýðshreyfingarinnar og óskýr markmið er aðalástæðan fyrir starfsdoðanum, er getur af sér lélegan árangur í hagsmunabaráttunni. Þessu verðum við að breyta áður en í algjör óefni er komið. Ég vil að lokum hvetja þingfulltrúa til að láta framkomna kjaraályktun verða hvatningu til breyttra starfshátta og markmiða verkalýðshreyfingarinnar, í þeirri stéttabaráttu er nú er frammundan.



# Samþykkt um fræðslustarf

Stóraukið fræðslu- og upplýsingastarf í verkalýðsfélögunum er eitt af brýnustu verkefnum verkalýðshreyfingarinnar í félagslegu starfi sínu og uppbyggingu í dag.

Nauðsyn fræðslustarfsins verður ekki í sundur slitin frá því markmiði verkalýðssamtakanna, að gera meðlimi sína meðvitaða um stéttarlega stöðu sína og eðli stéttaþjóðfélagsins.

Jafnframt verður verkalýðshreyfingin að kanna nýjar leiðir til að gera verkalýðsfélögin að gildari vettvangi fyrir félagslegar þarfir verkafólks, glæða þau nýju áhugaverðu lífi og skapa meiri fjölbreytni í félagslegu starfi þeirra, sem er forsenda þess að verkalýðssamtökin geti staðið sig í síharðnandi samkeppni við fjölmiðla eignastéttarinnar í landinu um skoðanamyndun og félagslegan áhuga verkalýðsstéttarinnar.

Í ljósi þess, sem að ofan er sagt vill 8. þing VMSÍ taka eftirfarandi fram:

Mörgu er ábótavant í fræðslustarfi verkalýðshreyfingarinnar og hægt miðar framávið. Fræðslustarf Menningar- og fræðslusambands alþýðu er þó mikilsverður áfangi í þessum málum, bæði með Félagsmálaskóla alþýðu og ýmsum námskeiðum. Þetta starf hefir þó takmarkast mjög vegna fjárskorts og verður þar úr að bæta. Hin einstöku verkalýðsfélög hafa þó ekki nýtt sér sem skyldi aðstoð MFA. Margar orsakir munu liggja til þessa, svo sem langur vinnutími og fjárskortur félaganna.

Þó er ekki síður þörf á auknum skilningi á því að námsstarfið er nauðsynlegt til að styrkja samtök alþýðunnar í baráttu hennar fyrir breyttum þjóðfélagsháttum er samræmist stefnu hennar og viðhorfum Til að þoka námsstarfinu áleiðis er óhjákvæmilegt að ríkisvaldið stórauki fjárframlög til fullorðinsfræðslu í landinu og verður verkalýðshreyfingin að leggja aukinn þunga á þessa sjálfsögðu kröfu þar sem hún stendur undir allri menntun í landinu og yfirleitt allri yfirbyggingu þjóðfélagsins, með framleiðslustörfum sínum. Telja verður að þörfin sé ótvíræðust í hinum almennu verkalýðsfélögum og er nauðsynlegt að Verkamannasambandið taki þetta mál föstum tökum. Skorar þingið á aðildarfélög sín að stórefla allt sitt fræðslustarf.

8. þing Verkamannasambands Íslands samþykkir að verja 500 þús. kr. á ári til fræðslustarfsemi á eftirfarandi hátt:

1. Aðstoða minni félög í VMSÍ til að taka aukinn þátt í starfsemi Félagsmálaskóla alþýðu og fræðslunámskeiðum.
2. Til útgáfu fréttabréfs og annarra upplýsingamiðlunar. Þingið felur framkvæmdastjórn sambandsins að kjósa 3ja manna nefnd til að sjá um framkvæmdir ofantalinna atriða.

# Ályktun um vinnuvernd

8. þing Verkamannasambands Íslands skorar á Alþingi og ríkisstjórn að fullgilda þau ákvæði Félagsmálasáttmála Evrópu sem varðar rétt barna, kvenna og öryrkja í sambandi við vinnuvernd, en þau voru felld úr þegar Alþingi fullgilti sáttmálann.

Bjarnfríður Leósdóttir frá Akranesi var flutningsmaður þessarar ályktunar. Í umræðum úr ræðustól sagði hún að Ragnar Arnalds fyrverandi formaður Alþýðubandalagsins hefði haft fátt til svara er hann var spurður af hverju enginn úr hans þingflokk hefði vakið máls og athygli á niðurfellingu hluta Félagsmálasáttmála Evrópu er hann var staðfestur á Alþingi. Aumt er það er við getum ekki tryggt lagalegan rett kvenna til að sinna ungviði sínu lítillega er þær taka þátt í atvinnulífinu. Unglingum og börnum má þræla út í frystihúsum og víðar ef atvinnurekendur sjá sér hag af, engin lög eru um vinnuvernd þeirra. Sama er upp á teningnum með vinnuvernd öryrkja. Þessi mál eru valdamönnum þjóðfélagsins til háborinnar skammar. Verkalýðshreyfingin verður að beita afli sínu til að tryggja fullgildingu Félagsmálasáttmála Evrópu er kveður á um vinnuvernd barna, kvenna og öryrkja.

# Ályktun um atvinnuöryggi

8. þing Verkamannasambands Íslands hvetur til árvekni varðandi tímabundið atvinnuleysi á hinum ýmsu stöðum á landinu, þar sem verkafólk hefur misst atvinnu sína, vegna þess að atvinnutækin hafa ekki verið fullnýtt, eða alveg stöðvuð.

Þingið hvetur verkalýðsfélögin að þrýsta vel á aðgerðir til úrlausnar í þessum efnum og lýsir jafnframt yfir, að það er skylda stjórnvalda að tryggja fulla atvinnu í öllum byggðum landsins.

# Ályktun um fundi á vinnustöðum

8. þing Verkamannasambands Íslands felur framkvæmdastjórn sambandsins, að skipuleggja samræmda fundarherferð á vinnustöðum meðal aðildarfélaga sambandsins. Tilgangur slíkrar fundaherferðar væri sá, að gera verkafólki innan vébanda VMSÍ grein fyrir stöðunni eins og hún er í dag, hvaða blikur eru á lofti og hvernig bæri að bregðast við atlögu af hálfu ríkisvaldsins, m.ö.o. Með þessu væri verið að undirbúa hreyfinguna, styrkja samstöðuna og efla baráttuandann. Jafnframt verði efnt til trúnaðarmannanámskeiða á samræmdan hátt meðal aðildarfélaganna, í beinum tengslum við fundaherferðina.

Þingið telur nauðsynlegt að nýta vel ákvæði úr síðustu kjarasamningum um vinnustaðafundi og trúnaðarmannanámskeið, verkafólki að kostnaðarlausu.

Dufþakur

# Stalínsnið Vésteins

Leikrit Vésteins Lúðvíkssonar, Stalín er ekki hér, sem nú er til sýnis á fjölum Þjóðleikhúss ins, hefur að vonum vakið talsverða athygli. Ekki endilega vegna þess að leikritið sé pólitískt eða róttækt, heldur fyrst og fremst vegna hæfileika Vésteins til að skrifa leikrit, en hann er eins og kunnugt er nýgræðingur á þessu sviði listarinnar. Um þá hæfileika hans verður vart efast, né heldur ágæta túlkun leikaranna í þessu verki.

Hitt er svo annað mál - og það skiptir raunar mestu - hvers konar pólitík Vésteinn setur fram í leikritinu. Þó margt hafi verið rætt og ritað um pólitískt innihald þess, þar sem ýmis vandamál vinstrihreyfingarinnar eru tekin til meðferðar, er varla hægt að segja, að sú pólitík þjóni málstað alþýðunnar eða sé á einhvern hátt hvetjandi í baráttunni gegn auðvaldsskipulaginu. T.a.m. er Skollaleikur Alþýðuleikhússins miklu mun róttækara verk en Stalínsnið Vésteins og fullt eins heilsteypt, þó borgarapressan hafi ekki (eðlilega) hampað því eins og leikriti Vésteins.

Boðskapur Vésteins fellur nefnilega í kramið hjá borgurunum og bestu stuðningsmönnum þeirra, endurskoðunarsinnunum. Stalín er útmálaður sem fjöldamorðingi og glæpon og skopast er að forystuflokki verkalýðsins, skipulagsreglum hans og aga. Vésteinn tekur til meðferðar innri vandamál verkamannafjölskyldu og atburðarásin á sér stað árið 1957, árið eftir "leyniræðu" Krúsjeffs og uppreisnina í Ungverjalandi.

Tilgangur Vésteins virðist vera tvíþættur: annars vegar að sýna fram á, að stefna Stalíns og hið leníníska flokksskipulag sé úrkynjað og að þeir einstaklingar, sem framfylgt hafa þessari stefnu séu forpokaðir harðstjórar (sbr. Þórð gamla); hins vegar að sýna fram á, að hið "hefðbundna" fjölskylduform - kjarnafjölskyldan svonefnda - sé úrelt fyrirbrigði. Eiginlega er Stalín, beint og óbeint, kennt um vandamál þau, sem þessi verkamannafjölskylda á við að etja.

Heimilisfaðirinn, Þórður, er gamall baráttumaður, einlægur stuðningsmaður Sósíalistaflokksins og flokksbundinn þar og hefur alla jafna verið virkur í réttindabaráttu verkalýðshreyfingarinnar. Þennan verkamann sýnir Vésteinn sem harðstjóra á sínu heimili og kreddufastan stalínista, sem að lokum býður algert skipbrot vegna þess að pólitískar hugsjónir hans hafa reynst vera tálsýn ein. Vésteinn beinir spjótum sínum fyrst og fremst að honum og skoðunum hans, en virðist hins vegar hafa hvað mesta samúð með stjórnleysingjanum Huldu, dóttur hans, sem hefur "uppgötvað" að Stalín er glæpon og vill breyta þjóðfélaginu, en veit bara ekki hvernig.

Þegar allt kemur til alls er leikritið árás á marx-lenínismann. Og kannski er það engin tilviljun, að nú kemur fram á sjónarsviðið leikrit, er gerist á þeim tíma, þegar "afhjúpanirnar" á "glæpum" Stalíns voru að hefjast, því á síðustu árum hafa hér á landi verið stofnuð pólitísk samtök, sem m.a. leitast við að framfylgja stefnu hins mikla leiðtoga og marx-lenínista, Jósefs Stalíns.

Leikverk Vésteins Lúðvíkssonar er ekki skrifað til að þjóna málstað verkalýðsbaráttunnar, né heldur er það aflvaki



í stéttabaráttunni, þó ekki verði af því skafið, að það er að mörgu leyti haglega samið. Enda hafa málgögn borgarastéttarinnar ekki séð ástæðu til að fjargviðrast út af því, sem þau annars hefðu gert, ef það hefði komið óþægilega við kaunin á valdamönnum þjóðfélagsins.

Dufþakur

frh. af forsíðu

# Grænland: Efnahagsleg kúgun

hefðbundnar atvinnugreinar. Ef það skilaði ekki nægum gróða, eða "svaraði ekki kostnaði" að mati stjórnarinnar í Kaupmanna höfn voru hópar grænlendinga hiklaust fluttir nauðungarflutningum til stórbæjanna. Þar beið þeirra síðanoftlega aðeins eymd og atvinnuleysi. Þekktasta dæmið um slíka nauðungarflutninga er eflaust fyrrverandi námabær inn Kutdligssat, sem þótti ekki "nógu arðbær" og var því lagður niður og íbúarnir hraktir á brott.

Fiskveiðar og fiskiðnaður voru vaxandi atvinnuvegur á Grænlandi, einkum vegna þess hve stutt er þar á gjöful fiskimið. Sú rányrkja sem stunduð hefur verið við Grænlandsstrendur nú á síðari árum, er þó á góðri leið með að kippa grundvellinum undan þeim rekstri. Það eru þó ekki Grænlendingar sjálfir, sem hafa stundað rányrkju á miðum þessum, nei það eru ryksugu-skip frá öðrum þjóðum, ekki síst Sovétríkjunum, sem staðið hafa að því að eyða fiskistofnunum við Grænland. Dönsk stjórnvöld hafa ekki séð ástæðu til að gera ráðstafanir til verndar fiskimiðunum við Grænland, enda er nú svo komið að sumir fiskistofnar þar hafa þegar hrunið(Til dæmis V-Grænlandsþorsk stofninn) og aðrir eru stórlega rányrktir. Á meðan danska nýlendustjórnin hefur látið rányrkju þessa óáreitta og jafnvel hvatt til hennar hafa grænlendingar sjálfir séð þörfina á vernd un. Sú afstaða kom ef til vill best í ljós, í allsherjaratkvæðagreiðslunni um inngönguna í EBE. Þar greiddu yfir 70% grænlendinga atkvæði gegn aðild. Þeim var fullkunnugt um að danska stjórnin ætlaði sér að nota auðlindir Grænlands, ekki síst fiskimiðin, til að braska með ásamt vinum sínum í EBE. Enda fór það svo að Grænland var látið ganga í EBE þrátt fyrir úrslit atkvæðagreiðslunnar (svolangt nær jú lýðræðisástin) og síðar hafa fiskveiðiheimildir við Grænland oft verið nefndar í samningum EBE ríkja um veiðiheimildir, meðal annars í samningum þeirra við íslensk stjórnvöld.

Auðlindir hafsbotnsins.

Grænland hefur löngum verið auðugt af ýmsum náttúruauðlindum eins og til dæmis ýmsum málmum, og nú eru hafnar boranir og rannsóknir á olíuauðlindunum undan ströndum landsins. Hefur danska stjórnin veitt ýmsum sterkustu olíuauðhringum heimsins leyfi til að standa að þessari könnun, þrátt fyrir að olíuvinnslan og leyfisveitingar hennar í því sambandi hafi verið harðlega gagnrýnt af grænlendingum. Við rannsóknir og nýtingu á olíu í svo köldum sjó er miklu meiri hætta á vistfræðilegum vandamálum, t.d, er þetta eini staðurinn í heiminum þar sem olíuboranir eru gerðar þar sem hafís er á svæðinu, og gæti hann m.a. valdið því að ógerlegt yrði að stöðva olíuleka. Bæði af vistfræðilegum orsökum og eins vegna hinna efnahagslegu kúgunar sem olíuvinnsla í stórum stíl á Grænlandi myndi óhjákvæmilega hafa í för með sér, er mikill meirihluti fólks á Grænlandi henni andsnúinn. En dönsku nýlenduherrarnir hafa hingað til ekki haft áhyggjur af áliti fólksins í landinu, þegar þeir ráðskast með og selja auðlindir þess.

Alger yfirráð dana.

Ef við lítum aftur á þá fullyrðingu í Vísisgreininni um að "ríkiskassinn" yrði að standa straum af um 75 % allra launagreiðslna á Grænlandi, sýnir það okkur etv. betur en nokkuð annað hversu gífurlega mikil völd danir hafa á Grænlandi og hve yfirráð þeirra eru altæk. Flest fyrirtæki og atvinnurekstur á Grænlandi eru í höndum þeirra. Grænlendingar sjálfir hafa þar enga hönd í bagga.

Kröfur sjálfstæðishreyfingarinnar.

Í Grænlandi er starfandi sjálfstæðishreyfing, sem hefur lýst því yfir að hún berjist fyrir fullu sjálfstæði landsins og gegn áhrifum heimsvaldastefnunnar á Grænlandi. Hreyfingin hefur sett fram kröfur sem hún hyggst berjast fyrir. Meginkröfurnar eru þessar:

1) Grænland tilheyrir grænlenskri alþýðu og hún en hefur yfirráðarétinn yfir öllum þess auðlindum og gæðum.

2) Alþýða landsins skal ein ákveða það pólitískt hvernig menntunin, efnahagslífið og stjórnmálin eiga að þróast á Grænlandi.

3) Strax verður að rifta samningum um núverandi olíu og málmvinnslu og einnig að koma í veg fyrir frekari samninga.

Sú barátta sem grænlendingar heyja nú fyrir þjóðlegu sjálfstæði sínu mun ugglaust verða löng og ströng. Danskir borgarar eru ekki á því að láta af yfirráðum sínum yfir þessari nýlendu sinni, Það er því hörð barátta framundan en af úrslitum hennar mun framtíð grænlensku þjóðarinnar ráðast.

# Grænlandsvinafélagið

Í sjálfstæðisbaráttu sinni er grænlendingum mikil nauðsyn á stuðningi og samstöðu sem víðast að. Sú barátta sem þeir heyja nú við dönsku nýlenduherrana minnir að nokkru á þá baráttu, sem íslendingar háðu við sömu herra, fyrir sjálfstæði sínu. Margt er þó ólíkt, og er til vill mest það að baráttan sem grænlendingar þurfa nú að heyja verður sennilega enn óvægnari, meðal annars vegna þess að um meiri auðlindir er að tefla fyrir nýlenduherrana.

Danska borgarastéttin bauð eitt sinn Ísland falt hæstbjóðanda- en það varð okkur til happs, að enginn varð til að bjóða í okkur.

Það sama gera dönsk stjórnvöld nú við Grænland- Þau bjóða falar auðlindir Grænlands til afnota fyrir fjölþjóðaauðhringa, og það eru margir um boðið.

Stuðningur við og áhugi fyrir málefnum grænlendinga er mikill og vaxandi hér á Íslandi. Nú í október s.l. var stofnað í Reykjavík Grænlandsvinafélagið Inuit. Félag þetta hefur það á stefnuskrá sinni að efla menningar og félagsleg tengsl milli Íslands og Grænlands. Stofnfundurinn var fjölsóttur og sýndi vel þann áhuga sem hér ríkir á málefnum þessara granna okkar í vestri. Þó er líklegt að ekki hafi allir verið mættir á þennan fund, sem hafa áhuga á að leggja þessu máli lið. Vill Stéttabaráttan því eindregið hvetja alla þá sem vilja kynnast sögu og málefnum Grænlands og eru reiðubúnir að starfa að því, að auka gagnkvæm tengsl og vináttu milli alþýðu þessara landa að skrá sig þegar í þetta nýstofnaða félag.

Formaður félagsins er Guðmundur Þorsteinsson og má hafa samband við hann í síma 7 62 41.



Myndin sýnir dansara frá austurströnd Grænlands að dansa hinn hefðbundna trommudans grænlendinga.

# Hin tíu megintengsl

## *eftir Mao Tse-tung*

"Hin tíu megin tengsl" flutti félagi Maó Tse-tung upphaflega sem ræðu á fundi pólitískrar framkvæmdanefndar miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína 25. apríl 1956.

Með því að birta ræðuna sem greinaflokk vill Stéttabaráttan gefa lesendum sínum tækifæri til að kynnast nánar þessum mikla leiðtoga kínversku þjóðarinnar

Hér dregur Maó Tse-tung saman reynslu Kínverja sjálfra sem og einnig reynsluna af Sovétríkjunum í sósíalískri byltingu og sósíalískri uppbyggingu. Á meistaralegan hátt dregur hann þetta saman í "tíu megin tengsl" og setur fram hugmyndir sem eru undirstaðan í stefnu sem lögð er til grundvallar í að byggja sósíalismann með stórstígari, hraðari, betri og meiri efnahagslegum árangri, stefna sem fellur að aðstæðum í Kína.

Stéttabaráttan er einnig sannfærð um að lesendur blaðsins geti marga lærdóma dregið af lestri þessa greinaflokks til brúks í eigin starfi að íslensku byltingunni.



Mao Tse-tung

### V. Tengsl landsyfirvalds og staðaryfirvalda

Tengslin milli landsyfirvalda og staðaryfirvalda mynda aðra móthverfu. Til að leysa þessa móthverfu, þurfum við að beina athygli okkar núna að auknum völdum staðaryfirvalda að vissu marki, að veita þeim meira sjálfstæði og láta þau framkvæma meira - allt með því augnamiði, að sameinuð stjórn landsyfirvalda verði efld. Þetta mun reynast hagkvæmt því verkefni okkar að byggja upp öflugt sósíalískt land. Landssvæði okkar er




svo víðáttumikið, mannfjöldinn svo feiknlegur og aðstæðurnar svo flóknar, að það er mikið betra að frumkvæðið komi bæði frá landsyfirvöldum og frá staðaryfirvöldum, heldur en einungis frá einum aðila. Við megum ekki fylgja dæmi Sovétríkjanna að safna öllum völdum á hendur landsyfirvaldanna, og veikja þannig staðaryfirvöld og svipta þau réttinum til sjálfstæðra aðgerða.

Landsyfirvöldin vilja þróa iðnaðinn og það sama vilja staðaryfirvöldin. Jafnvel iðnfyrirtæki sem heyra beint undir landsyfirvöldin þurfa á aðstoð frá staðaryfirvöldunum að halda. Og þetta gildir enn frekar um landbúnaðinn og verslunina. Í stuttu máli sagt, ef við eigum að efla sósíalíska uppbyggingu verðum við að gefa frumkvæði staðaryfirvaldanna svigrúm. Ef við ætlum að efla landsyfirvöldin, verðum við að gegna hagsmunum landshlutanna.

Nú sem stendur liggja margir þræðir til landshlutanna, og gera þeim örðugt fyrir. Strax og ráðuneyti hefur verið sett á legg, vill það gera byltingu og hefur útgáfu fyrirmæla. Þar sem hin ýmsu ráðuneyti álíta það óviðeigandi, að gefa út fyrirmæli til flokksnefndanna og alþýðuráðanna í héruðunum, koma þau beinum tengslum á við viðkomandi deildir og skrifstofur í héruðum og borgum og gefa þeim fyrirmæli dag hvern. Öll þessi fyrirmæli koma í nafni landsyfirvalda, jafnvel þótt Miðstjórn flokksins eða ríkisráðið viti ekkert af þeim, og þau verða staðaryfirvöldunum til mikillar armæðu. Það er svo mikið af tölfræðilegum ífyllingareyðublöðum í umferð, að þau eru orðin ógnvaldur. Þessu verður að breyta.

Við ættum að hvetja til þeirra starfsaðferða, að staðaryfirvöld séu höfð með í ráðum, þegar mál eru tekin til meðferðar. Það er starfsvenja miðstjórnar flokksins að hafa staðaryfirvöld með í ráðum, þegar mál eru tekin til meðferðar. Það er starfsvenja miðstjórnar flokksins að hafa staðaryfirvöld með í ráðum; hún gefur aldrei fyrirmæli í flýti án undangenginna ráðfæringa. Við vonum að hin ýmsu ráðherraembætti og ráðuneyti heyra undir landsyfirvöldin muni veita þessu tilskylda athygli og ráðfæri sig fyrst við staðaryfirvöld í öllum þeirra málum og gefi ekki út fyrirmæli án fullrar ráðfæringar.

Ráðuneytin skiptast í tvo hópa. Sá fyrri hefur beina stjórn á sjálfum fyrirtækjunum, en stjórnir þeirra og fyrirtækjanna á hinum ýmsu stöðum eru einnig undir yfirumsjá staðaryfirvaldanna. Seinni hópurinn hefur það verkefni með höndum að setja fram leiðbeinandi grundvallarreglur og semja starfsáætlanir, en staðaryfirvöldin taka á sig ábyrgðina og hrinda þeim í framkvæmd.

Rétt meðhöndlun tengslanna milli landsyfirvalda og staðaryfirvalda er lífsspurs mál fyrir stórt land og stóran flokk eins og okkar. Sum auðvaldslönd veita þessu einnig mikinn gaum. Og þótt þjóðfélagskerfi þeirra sé grundvallarlega andstætt þjóðfélagskerfi okkar, er samt sem áður ástæða til að rannsaka reynsluna af vexti þeirra Tökum eigin reynslu sem dæmi. Kerfið sem fól í sér tilvist stóru stjórnsvæðanna, sem sett var á stofn á fyrstu árum lýðveldis okkar var nauðsynlegt þá. Þó hafði það galla sem andflokks bandalag Kao Kang og Jao Shu-shih notfærði sér að vissu marki. Afleiðingin varð sú, að ákveðið var að leggja stóru stjórnsvæðin niður og færa hina ýmsu landshluta beint undir stjórn landsyfirvaldanna. Þessi ákvörðun var rétt. Samt sem áður var árangurinn ekki sem skyldi, þegar það leiddi til þess að landshlutarnir voru sviptir nauðsynlegu sjálfstæði sínu. Samkvæmt stjórnarskrá okkar er löggjafavaldið að öllu leyti í höndum landsyfirvaldanna. En staðaryfirvöld geta samið reglugerðarákvæði og samþykktir í ljósi sérstæðna sinna og sérþarfa í starfi sínu, gengi þær ekki í berhögg við stefnugerð landsyfirvaldanna, og þetta er á engan hátt andstætt stjórnarskránni. Við viljum bæði einingu og sjálfstæði. Það er afgerandi að hafa sterk og sameinuð landsyfirvöld og sameinaða skipulagningu og aga í landinu öllu, til þess að byggja upp öflugt sósíalískt land. Að rjúfa þessa ómissandi einingu er óleyfilegt. Samtímis er nauðsynlegt að frumkvæði staðaryfirvalda fái að njóta sín til fulls og að sérhver landshluti njóti sjálfstæðis sem hæfir staðbundnum aðstæðum hans. Þetta sjálfstæði er ekki af sömu gerð og sjálfstæði Kao Kangs, það er sjálfstæði sem nauðsynlegt er fyrir hagsmuni heildarinnar og styrkingu þjóðlegrar einingar.

Milli mismunandi staðaryfirvalda eru einnig tengsl og hér á ég einkum við tengslin milli æðri og lægri staðaryfirvalda. Þar sem landshlutar og borgir hafa sínar eigin umkvartanir yfir landsyfirvöldunum, hljóta þá sýslur, héruð, svæði og bæjir ekki að hafa einhverjar umkvartanir yfir landshlutum og borgum? Landsyfirvöld ættu að gæta þess að veita frumkvæði landshluta og borga svigrúm, og hin síðarnefndu ættu að gera slíkt hið sama gagnvart sýslum, héruðum, svæðum og bæjum. Í hvorugu tilfelli má setja lægri einingar í spennitreyju. Skiljanlega verður að upplýsa félaga í lægri einingum um þau mál, þar sem miðstýring er nauðsynleg og þeir geta ekki farið sínu fram að vild. Í stuttu máli, miðstýringu þarf að koma á þar sem hún er nauðsynleg og möguleg, annars á alls ekki að koma henni á. Landshlutar, borgir, sýslur, héruð, svæði og bæjir ættu að njóta nægjanlegs sjálfstæðis og ættu að berjast fyrir slíkum rétti í hagsmuni allrar þjóðarinnar og ekki í hagsmuni staðbundinna yfirvalda er ekki hægt að nefna staðarrembing eða óraunhæfa kröfu um sjálfstæði.

Tengslin milli hinna ýmsu landshluta og borga er einnig viss gerð tengsla sem þarf að meðhöndla einnig á réttan hátt. Það er föst regla hjá okkur að mæla fyrir umhyggju fyrir almennum hagsmunum, gagnkvæmri aðstoð og gagnkvæmum viðskiptum. (accommodation).

Reynsla okkar er enn af skornum skammti og ófullburða með tilliti til meðhöndlunar tengslanna milli landsyfirvalda og staðaryfirvalda og milli hinna ýmsu staðaryfirvalda innbyrðis. Við vonum að þið gefið þessu gaum og ræðið um það í alvöru og dragið saman reynslu ykkar af og til, til þess að örva árangurinn og bæta úr göllunum.

frh. af bls. 4.

RÆÐA
SIGURÐAR J. ÓLAFSSONAR

### VERKAFÓLK TAKIÐ VIRKAN ÞÁTT Í FÉLAGSMÁLUM

vinna þrískiptar vaktir, auk dagvinnumanna. Fyrir síðustu samninga var mynduð eins konar samfylkingarnefnd meðal verkamanna í álverinu. Hún var þannig til komin, að í hverri deild og á hverri vakt kusu verkamennirnir sér 1-2 fulltrúa, ef trúnaðarmenn voru ekki fyrir hendi. Þessir fulltrúar hinna ýmsu deilda og einstakra vaktahópa komu saman reglulega til að ræða og móta kröfurnar, eftir að hafa áður fengið álit þess vaktahóps, sem þeir voru fulltrúar fyrir. Á þennan hátt voru kröfurnar mótaðar á vinnustaðnum sjálfum en ekki skrifstofum verkalýðsfélagsins eins og algengara mun því miður vera.

Mig langar svo í lokin að fara fáeinum orðum um starfshætti ASÍ og reyndar fjölmargra verkalýðsfélaga í allsherjarverkföllum. Ég nefni að vísu allsherjarverkföll hér sem dæmi, þó ég sé ekki viss um að þau séu heppilegasta baráttuformið; skæruverkföll t.a.m. eru án efa eitt beittasta vopn verkalýðsins í kjaradeilum. Allt um það; í þeim allsherjarverkföllum, sem ASÍ hefur staðið fyrir undanfarin ár, hefur algjörlega verið vanrækt að virkja hinn gífurlega fjölda, sem verkfallið tekur til. Á meðan forystumennirnir hafa verið að makka við atvinnurekendur hefur algjörlega verið vanrækt að koma upplýsingum um gang samningaviðræðnanna til félaganna, engir fundir verið haldnir til að hvetja fólk í baráttunni, lítið hirt um að fá mannskap til að mæta á verkfallsvaktir o.s.frv. Einstök verkalýðsfélög ættu að hafa daglega opið hús hjá sér, þar sem staðan í viðræðunum væri skýrð.

Ég hef hér að framan reynt að skýra þá galla í starfsemi verkalýðshreyfingarinnar, sem ég tel alvarlegasta og reynt eftir megni að koma með tillögur til úrbóta. Allt eru þetta atriði, sem krefjast þess að vera rædd niður í kjölinn. Þessari óheillaþróun verður að snúa við. Það verður að stefna að því að endurreisa stéttarfélögin sem raunveruleg baráttutæki í höndum vinnandi fólks.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
45. og 46. tbl. 20. 12. 1977

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Hví er Kommunistaflokkurinn byltingarsinnaður

Fullkomið svar við þeirri spurningu hvers vegna Kommúnistaflokkurinn sé byltingarsinnaður er engan vegin hægt að gefa í einni stuttri blaðagrein. Hér verður þó reynt að draga fram nokkur meginatriði ef vera kynni að það gæti aukið skilning einhverra á þessu máli. Meðal almennings á Íslandi ríkir háskaleg vanþekking á þessu grundvallaratriði en það stafar af hinum geigvænlega áróðursmætti sem borgarastéttin hefur hérlendis móts við áróðursmátt sósíalismans.

Fólki hættir til, þegar byltingu ber á góma, að setja hana gagnrýnislaust, í samband við ofbeldi, öfgar og ofstæki. En þó er hér um tvo óskylda hópa að ræða. Annars vegar eru þeir sem hafa hagsmuna að gæta með slíkum áróðri þ.e. auðherrarnir og aftaníossar þeirra. Hins vegar er alþýðufólkið sem er þrúgað af borgaralegum áróðri og er í erfiðri aðstöðu til að reisa rönd við. Það skilur ekki hinar efnalegu forsendur fyrir byltingunni.

Kommúnistar eru byltingarsinnar, ekki vegna ástar þeirra á ofbeldi, öfgum og ofstæki heldur þveröfugt vegna haturs þeirra á þessu þrennu.

En í baráttu sinni vaða þeir hvorki reyk né villu, heldur hafa þeir gert og gera stöðugt rannsóknir á eðli stéttabaráttunnar hérlendis og erlendis.

Þær rannsóknir eru gerðar eftir vísindalegum leiðum díalektískrar og sögulegrar efnishyggju.

## Díalektíkin í örstuttu máli.

Díalektík er andstæð frumspeki í því að hún skoðar ekki náttúruna sem tilviljandi samsafn hluta og fyrirbæra, er séu án sambands, einangruð og óháð hvert öðru, heldur sem samþætta og samstæða heild, þar sem hlutir og fyrirbæri standa í nánum eðlistengslum, hvert öðru háð og skilyrðisbundið.

Díalektík er andstæð frumspeki í því, að hún skoðar ekki náttúruna sem ástand hvíldar og hreyfingarleysis, kyrrstöðu og óbreytileiks, heldur sem ástand sífelldrar hreyfingar og breytingar, endurnýjunar og þróunar, þar sem eitt fæðist og þroskast, en annað hrörnar og deyr,

Samkvæmt hinni díalektísku aðferð er ekki það mikilvægast, sem virðist í svipinn haldgott, en er þó í rauninni tekið að hrörna, heldur hitt sem er að skapast og þroskast, þótt það kunni í þann svip að sýnast haldlítið, því ósigranlegt er það eitt sem er í nýmyndun og framþróun.

Díalektík er andstæð frumspeki í því, að hún skoðar ekki gang þróunarinnar blátt áfram sem vaxtaraukningu, er fólgin sé í breytingu megindar (stigbreytingu), án þess að henni fylgi nokkur breyting eigindar (eðlisbreyting), heldur telur hún þróunina í því fólgna, að smávægilegar og á óáberandi megindarbreytingar leiði til augljósra gjörbreytinga - eigindarbreytinga, - ekki smám saman heldur snöggt og skyndilega, í stökki úr einu ástandi í annað. Ekki af tilviljun heldur samkvæmt lögmálum og fyrir tilverknað samsafnaðra áhrifa þessara óverulegu og hægfara megindarbreytinga.

Díalektík er andstæð frumspeki í því, að hún gerir ráð fyrir innri andstæðum ( móthverfum ) er allir hlutir og fyrirbæri náttúrunnar verði að hlíta, því öll eiga þau sér jákvæða hlið og neikvæða, fortíð og framtíð, vaxtar skeið og



hnignunar. Hún telur að barátta þessara andstæðna, barátta hins gamla og nýja, þess sem deyr og hins sem fæðist, þess sem hrörnar og hins sem dafnar, sé inntak allrar þróunar, inntak allra umskipta, þar sem stigbreyting megindar leiðir til eigindarbreytinga.

Díalektík táknar í raun og veru rannsókn mótsagnanna í sjálfu eðli hlutanna.

## Eigndarbreytingar í þágu verkalýðsstéttarinnar

Íslenska auðvaldsþjóðfélagið er í dag á stigi megindabreytinga. Höfuðhreyfiöflin í þessum megindarbreytingum er barátta verkalýðsstéttarinnar og borgarastéttarinnar. Og sú barátta verður enn höfuðhreyfiaflið þegar baráttan -

frh. á bls. 3

# Hátið ljóssins

Svo ber við um þessar mundir að haldin skulu jól-hátíð ljóssins. Jól hafa verið haldin hátíðleg frá örófi alda og alla tíð sem hátíð ljóssins. Hið forna var haldin hátíð ljóssins til að fagna hækkandi sól og til að létta geð manna í svartasta skammdeginu. Þegar kristin trú tók að ryðja sér til rúms í Evrópu "kristnaði" hún ef svo má segja, forna siði. Jólahátíðin er enn haldin sem hátíð ljóssins, en það ljós er nú orðið "ljós heimsins" eða Jesú Kristur. Hin kristnu jól byggja enn á fornum siðvenjum og er sambland þessa tveggja þátta oft hið furðulegasta.

Hinar fyrstu jólagjafir gáfu þrír vitringar, sem Biblíusagan hermir að hafi ratað til Betlehem eftir tilvísan halastjörnu einnar og fært Jesúbarninu að gjöf ,gull reykelsi og myrru. Til að viðhalda þessum sið gefa kristnir menn, enn þann dag í dag, hver öðrum gjafir, En eru þessar gjafir bara til að apa eftir vitringum þessum? Nei, gjafasiðurinn er mikið eldri. Í heiðni klæddu menn sig vitanlega upp á, fyrir stærstu hátíð ársins og á árdögum íslenskrar kristni voru föt helsta jólagjöfin. Seinna bættust við kerti og spil. Jólagjöfin átti að vera nytsöm, til gleði og gefin með hugarfarinu að sælla sé að gefa en að þiggja.

Hvernig eru jólagjafir nú á dögum? Kappsmálið er að fá sem flesta pakka að gjöf. Helst stóra pakka, segja börnin og ekki bara föt og annað svona sem maður notar. Helst flotta pakka segja þeir fullorðnu og ef þú veist ekki hvað vininn vantar þá gefðu dýran blómavasa, svo þú sért ekki eftirbátur annarra að rausn. Fyrir jól er boðaður kærleikur guðs og að sælla sé að gefa en þiggja En eftir jól metast börnin um hvert þeirra hafa fengið flesta og stærsta pakkanna.

Á jólunum eiga allir að vera góðir og börnin að vera þæg, því annars verður Jesú svo hryggur eða í sumum tilvikum því annars verður guð svo reiður. Óþægu börnin skulu ekki fá neinar gjafir, af því þau óhlýðnast drottni með óþægð sinni á hátíð hans. Þannig verður hinn kærleiksríki guð allt í einu foxillur og hefnigjarn á sjálfri kærleikshátíð sinni, yfir einum óþekkum krakka. Er nokkur furða þótt barni gangi illa að skilja sambandið milli guðsótta og kærleika?

Eldri refsivöndur á óþæg börn eru hjónakornin Grýla og Leppalúði og synir þeirra jólasveinarnir, sem eru hinar verstu ótugtir. Íslensk jólasveinninn nú á dögum er þríþætt blanda. Í fyrsta lagi gömlu jólasveinarnir sem bæði eru þjófóttir og hrekkjóttir; í öðru lagi búálfar sem stundum var gefinn grautur í skál úti, en eru nú nokkurs konar jólasveinakrakkar; og í þriðja lagi hinn útlenski St Claus með hvítt skegg, í rauðum búningi og gefur börnin gjafir. Nútíma jólasveinninn býr uppi í fjöllum og kemur niður í byggð um jólin , eins og gömlu jólasveinarnir , en þar breytist hann svo allt í einu í Santa Klás Grýla og leppalúði eru nú orðin gömul og lúin og löngu hætt að éta börn og jólasveinarnir segja frá því er þeir voru óþægir í gamla daga, en nú hafi þeir fundið út að miklu skemmtilegra sé að vera góðir strákar og gefa blessuðum börnunum gjafir. Er dálítið erfitt að finna kristinn boðskap í þessum gamla sið.

Fleira gerist skringilegt um jólin og víkur nú sögunni til Betlahem. Ekki þarf að skoða mörg jólakort, til að sjá hvernig þar var umhorfs þegar Jesúbarnið fæddist. Á myndinni er gjarnan lítill kofi og þar inni er óskóp bjart. Á miðju gólfi er jata, eins og vagga í laginu og í henni liggur lítið barn. Ekki eru nú jötur í íslenskum fjárhús umeins og vöggur í laginu en

frh. á bls. 2

# „Hagur okkar allra"

Iðnkynningarárið góða er nú á enda og ekki seinna vænna að meta árangur þess. Hver skyldi nú hafa verið tilgangur þess? Ef litið er á vígorðin, kemur tvennt fram. Annars vegar er fólk hvatt til að kaupa innlendar vörur, frekar en erlendar. Hins vegar er reynt að telja fólki trú um að gróðinn af íslenskri framleiðslu, renni jafnt til iðnverkafólks og iðnrekenda. Fyrra markmiðið hefur lítið náðst fram, því sala hefur ekki aukist verulega á innlendum iðnaðarvörum. Öllu meiri árangur náðist að síðara markinu og það er ekki svo litlu náð ef það fæst.

Þessu vígorði "Innlendur iðnaður hagur okkar allra", er beint til allrar þjóðarinnar. Hér er fluttur sá boðskapur að til séu sameiginlegir hagsmunir allrar þjóðarinnar hvort heldur menn eru í verkalýðsstétt eða auðstéttinni. Reyndar er til annað vígorð með sama boðskap, eða "Stétt með stétt!" Þetta vígorð sjáum við á síðum Morgunblaðsins, málgagns "flokks allra stétta." Og þetta sama vígorð nota fasistar.

Hvaða afleiðingu hefur það ef verkalýðshreyfingin starfar undir kjörorðinu "Stétt með stétt?

Í því þjóðfélagi er við búum í, fer borgarastéttin með völdin, þ.e. sú stétt sem fær sinn auð og sitt vald frá að eiga þá framleiðslu sem aðrir skapa með vinnu sinni. Stéttasamvinna í slíku þjóðfélagi, stuðlar eðlilega ekki að því að brjóta niður þetta vald borgarastéttarinnar. Við alræði borgarastéttarinnar, -fasismann, eru allir "aðilar vinnumarkaðarins" skyldaðir til að vera í sama verkalýðsfélagi. Verkafólk og atvinnurekendur eru höfð saman í félagi, af því þau hafi sameiginlegra hagsmuna að gæta. Gangi rekstur fyrirtækisins illa bitnar það á verkafólki - sameiginlegir hagsmunir eru því að fyrirtækið græði. Eða hvað?

Það missir atvinnu, laun þess lækka, og það líður skort, þrátt fyrir að kreppan skapast að því að of mikið hefur verið framleitt og ofgnótt er af vörunum, sem falla því í verði. Við sjáum því að vígorðið "hagur okkar allra", þýðir "á skiljanlegu máli "hagur auðstéttarinnar", og þó sérstaklega einokunnarstéttarinnar innar.

# Stéttabaráttan

Áskrifta og söluherferðin gengur með ágætum, en henni á að ljúka um áramótin. Þrátt fyrir að nýir áskrifendur telji aðeins 80 er það ekki allur sannleikur í málinu. Tæplega 100 manns eru reynsluáskrifendur fram til áramóta og mun þá koma í ljós hve stór hluti þeirra mun gerast fastir áskrifendur.
Unnið er skipulega að því að bæta tækjakost blaðsins fyrir áramót og verður þá útlit og stæð blaðsins þá allt með betri hætti en verið hefur.
Aukin útbreiðsla-Bættur fjárhagur-Tíðari útgáfa.




Hamarinn sýnir aukningu lausasölunnar frá upphafi herferðarinnr. 1 september s.l. Sigðin telur aukningu áskrifenda á sama tímabili.

Nýjar áskriftir skal póstsenda til : Rauðu Stjörnunnar Lindargötu 15. Pósthólf 1357. S: 27810.